# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, JÚLÍ OG ÁGÚST 1899. Nr. 5, 6.

## Fimtánda ársþing

*hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vesturheimi*

kom saman í kirkju Hallson-safnaðar í Norður-Dakota föstudaginn 23. júní 1899 kl. 10 árdegis. Áður en þingið var sett fór fram opinber guðsþjónusta, og prédikaði séra Jónas A. Sigurðsson við það tækifæri út af þessum orðum í Lúk. 14, 17: ,,Tóku þeir þá að afsaka sig allir í einu hljóði". Að guðsþjónustunni lokinni setti séra N. Steingr. þorláksson, í umboði forseta kirkjufélagsins sem var fjarverandi, þingið, samkvæmt hinu venjulega formi.

Í nefnd til að veita móttöku kjörbréfum erindsreka, taka á móti afsökunum frá söfnuðum þeim, er ekki höfðu sent fulltrúa, leggja til um þingsetu erindsreka o.s.frv., útnefndi forseti: Magnús Pálsson, Friðjón Friðriksson og Pálma Hjálmarsson.

þá lagði forseti fram þannig lagaða skýrslu yfir söfnuði og presta kirkjufélagsins:

Söfnuðir: Marshall-söfnuður, St. Páls-söfnuður í Minneota, Vesturheimssöfn, Lincoln-söfn., Garðar-söfn., þingvallasöfn. (N.-Dak.), Víkursöfn., Péturssöfn., Vídalínssöfn., Grafton-söfn., Pembina-söfn., Fyrsti lút. söfn. í Winnipeg, Fríkirkju-söfn., Frelsis-söfn., Brandon-söfn., þingvallanýlendusöfn. (Assa), Selkirk-söfn., Víðinessöfn., Árnessöfn., Bræðra-

söfn., Fljótshlíðarsöfn., Mikleyjarsöfn., Melanktons-söfn., Fjallasöfn., Hallson-söfn.

Prestar og embættismenn: séra Jón Bjarnason, séra Friðrik J. Bergmann, séra N. Steingrímur Þorláksson, Séra Jónas A. Sigurðsson, séra Björn B. Jónsson, séra Oddur V. Gíslason, séra Jón J. Clemens, séra Rúnólfur Marteinsson, Jón A. Blöndal (féhirðir).

Þá var samþykt að fresta fundi þar til kl. 2.30 e. h.

2. fundur, sama dag kl. 2.30 e. h.

Fyrst var sunginn sálmurinn nr. 51 í sálmabókinni.

Kjörbréfanefndin kom með skýrslu sína. Samkvæmt henni áttu þessir erindsrekar sæti á kirkjuþinginu: Fyrir St. Páls-söfn.: G. B. Björnsson, S. Th. Westdal; Lincoln-söfn.: Jóhannes Pétursson, Þorlákur Pétursson; Garðar-söfn.: Gamalíel Þorleifsson, Sigurður Sigurðsson, Sigfús Bergmann; Þingvalla-söfn.: Sigurgeir Björnsson, Jóhann Sigurðsson; Víkursöfn.: Sveinn Sölvason, Þorsteinn Jóhannesson, Tómas Halldórsson; Fjallasöfn.: S. S. Grímsson; Hallson-söfn.: Pálmi Hjálmarsson, Jakob Benediktsson; Péturssöfn: Jón Frímann, Halldór B. Jónsson; Vídalínssöfn.: Jón Þórðarson, Jóhann Erlendsson, Einar G. Eiríksson; Pembina-söfn.: Gunnar Jóhannsson, Matúsalem Jónsson; Grafton-söfn.: Jón Sigfússon; Melanktons-söfn.: Jón Kristjánsson; Fyrsta lút. söfn. í Winnipeg: Magnús Pálsson, Sigtr. Jónasson, Halldór S. Bardal, Björn T. Björnsson; Fríkirkjusöfn.: Björn Jónsson, Björn Sigvaldason; Frelsissöfn.: Friðjón Friðriksson, Jón Björnsson; Brandon-söfn.: Brandur J. Brandsson; Þingvallanýlendu söfn.: Jóhannes Einarsson; Selkirk-söfn.: Guðjón Ingimundarson; Bræðrasöfn.: Bjarni Marteinsson.

Marshall- og Vesturheims-söfnuðir, í prestakalli séra B. B. Jónssonar, báðu þingið afsökunar á því, að þaðan gátu engir erindsrekar mætt í þetta sinn vegna hinnar miklu vegalengdar.

Að nefndarálitinu samþyktu skrifuðu þingmenn undir svo hljóðandi játningu:

,,Vér undirritaðir, prestar og kirkjuþingsmenn, endurtök-

um hérmeð hina lútersku játningu safnaða vorra, er vér, sem meðlimir hinnar lútersku kirkju höfum áður gjört, og skuldbindum oss hátíðlega til að starfa á þessu þingi og heima í söfnuðum vorum að þeim málum, sem hér verða samþykt, samkvæmt grundvallarlögum kirkjufélagsins og tilgangi þeirra“.

Þar á eftir las hinn setti forseti, séra N. S. Þorláksson, upp ársskýrslu forseta, þannig hljóðandi:

*Ársskýrsla forseta.*

Eins og sjá má á safnaðarskránni, sem fram hefir verið lögð, eru nú taldir í kirkjufélaginu 25 söfnuðir. Eru það hinir sömu söfnuðir og taldir voru í byrjun síðasta kirkjuþings, og svo einn nýr, Melanktonssöfnuður í N.-Dak., sem á því þingi var tekinn inn í kirkjufélagið. Jóhannesar söfnuður í Pipestone-bygð, Man., sem myndaður var í fyrra, hefir 22. marz síðastl. samþykt að beiðast inngöngu í kirkjufélagið, og kemur umsókn um það fyrir þetta þing.

Prestarnir hinir sömu 7 og áður, og svo einn enn, sem við hefir bæzt, séra Rúnólfur Marteinsson, prestvígður af forseta kirkjufélagsins í Fyrstu lút. kirkjunni í Winnipeg, sunnud. þ. 7. maí síðastl.—Séra N. Steingrímur Þorláksson þjónar nú, síðan á útmánuðum, söfnuðinum í Selkirk, Man., ásamt söfnuðum sínum (norskum) í Park River, N.-Dak. og þar í grendinni, sem hann undanfarandi hefir þjónað. Nýtur því kirkjufélag vort starfs hans nú meir en áður. Tveir prestarnir eru nú fjarlægir, séra Jón Bjarnason, forseti kirkjufélagsins, og séra Friðrik J. Bergmann, varaforseti þess, báðir í Íslandsferð. Séra Friðrik J. Bergmann fór aðallega í þá ferð sökum heilsulasleika, sem hann hefir þjáðst af undanfarandi ár. Biðjum vér þess allir og vonum, að drottinn láti honum verða heilsubót að ferðinni og hvíldinni. Eru þessir tveir prestar væntanlegir aftur úr ferð sinni í haust. Séra Rúnólfur Marteinsson þjónar Fyrsta lút. söfnuðinum í Winnipeg í fjarveru prests þess safnaðar, séra Jóns Bjarnasonar. Í fjarveru séra Friðriks J. Bergmanns veita prestar kirkjufélagsins prestakalli hans væntanlega þá þjónustu, sem þeir geta í té látið. Séra Jónas A. Sigurðsson kom seint í október í haust eð var, úr Islandsferð sinni, sem hann hóf í maí í fyrra.

Missíónarstarfsemi kirkjufélagsins, á umliðnu ári, hefir líklega verið meiri en nokkurntíma undanfarandi. Er missíónar-meðvitundin vafalaust að glæðast hjá safnaðar fólki voru. Er það ekki all-lítið fagnaðarefni. Því meir sem tilfinningin hjá söfnuðunum vex fyrir kristindóminum og því betur sem þeir kunna að meta hina óumræðilegu blessun hans fyrir sjálfa sig, því meiri verður áhuginn fyrir því, að öðrum, sem kringumstæðna vegna fara á mis við þá blessun, gefist kostur á að njóta hennar. Svo meigum vér ekki gleyma því, að vér sjálfir og söfnuðir vorir höfum andlegan hag af því, sem vér leggjum í sölurnar málefni drottins til eflingar. Eins og það er lögmál líkamlegt, að manninum fer fram líkamlega með því að leggja á sig hæfilega vinnu, eins er það andlegt lögmál, að maðurinn tekur andlegum þroska með því að starfa

andlega. Drottinn umbunar þeim, sem ávaxtar pundið honum í hendur fengið. Séra Rúnólfur Marteinsson, þá stúd. theol., sem ráðinn var til *missiónar* kirkjufélagsins um sumarmánuðina og unnið hafði að því verki á annan mánuð á undan síðasta kirkjuþingi, hóf snemma í júlímánuði aðra mis·iónar-ferð sína til nýlendanna íslenzku, sem kendar e.u við Grunnavatn og Álftavatn í Manitoba. Skýrsla hans um þá ferð sýnir, að fólk í þeim bygðarlögum hugsar um kristindòmsmál sín og langar til að þau gætu komist í betra horf hjá sér. Sunnudagsskólar voru þegar myndaðir og lestrar-guðsþjònustur haldnar á sunnudögum í einu skòlahúsinu. Þá fór hann upp úr þeirri ferð vestur til Red Deer-nýlendunnar í Alberta. Dvaldi hann þar um tvær vikur og hafði 4 guðsþjónustur, auk þess sem hann, á heimleið sinni, dvaldi hjá Íslendingum í bænum Calgary og flutti þar guðsþjònustur tvær. Þetta er í fyrsta sinni, að kirkjufélaginu auðnaðist að senda mann til Íslendinga á þeim stöðvum, til þess að flytja boðskap kristindòmsins. Í 9—10 ár voru bræður vorir og systur búin að dvelja hér, og höfðu ekki um allan þann tíma átt kost á að hlýða á guðs orð flutt af lúterskum prédikara. Vér, sem um lengri tíma höfum átt kost á að koma saman um guðs orð og sakramentin og notið höfum guðsþjónustu og drukkið nautn lífsins fyrir Jesúm Krist, ættum að finna til með þeim, sem verða að fara á mis við alt þesskonar. Á þessum stöðvum, eins og annarsstaðar á meðal fòlks vors, á kristindómsmálefnið einlæga vini, sem þrá það innilega, að hægt væri að ráða bót á þessum svo mjög tilfinnanlega skorti. Eins og víðar er kvennfólkið hér helztu hvatamenn kristindòmsmálefnisins. Hefir það sýnt það í verkinu, með því að gjöra tilraun til þess að halda uppi sunnudagsskòla í bygðinni (sjá skýrslu í „Sam." XIII, bls. 93—95).

Þá fòr séra Jòn Bjarnason missiònar-ferð til Nýja Íslands að áliðnum ágústmánuði. Fòr hann um alla nýlenduna, „ekki til þess að eiga neitt við kirkjumál bygðarlags þessa hið ytra", eins og hann tòk fram, hvar sem hann prédikaði í nýlendunni, „heldr eingöngu til þess að heilsa upp á menn í Jesú nafni og eftir mætti að hvetja menn til að glæða hjá sér ljòs kristinnar trúar í hjörtunum og húsunum". Varð séra Jón var við, að gròður var farinn að myndast upp úr flaginu eftir vantrúarbrunann, sem geysaði um nýlenduna hérna um árið. Var sá gròður drottins honum sönnun fyrir því, að í Nýja Íslandi sé eins vís framtíðarvon fyrir kirkju vora og kristindóm eins og í hverju öðru íslenzku bygðarlagi. Var séra Jón um þrjár vikur í þessari ferð sinni (sjá skýrslu í „Sam." XIII, bls. 106—111).—Þá fór séra Björn B. Jónsson í sömu erindum til Watertown, S.-Dak., Duluth og Minneapolis, Minn. í ágúst og september (sjá „Sam." XIII, bls. 111). — Séra Friðrik J. Bergmann heimsótti Íslendingabygðina við Roseau, Minn. í ágúst (sjá „Sam." XIII, bls. 111 og 139). — Í sama mánuði heimsòtti séra Jón J. Clemens söfnuðinn í Brandon („Sam." XIII, bls. 144). Svo aftur í júní, og sömuleiðis Pipestone-nýlenduna. Fól Jòhannesar-söfnuður honum í þeirri ferð að flytja fyrir kirkjuþing beiðni sína um inngöngu í kirkjufélagið.—Séra Oddur V. Gíslason, sem er ráðinn fyrir prest að eins af tveimur söfnuðum í Nýja Íslandi, Bræðrasöfnuði og Mikleyjarsöfnuði, auk þess

sem hann er ráðinn af Þingvallanýiendu-söfnuði í Assa., hefir, fyrir utan fasta söfnuði sína, prédikað og gjört önnur prestverk á 5 stöðum í ýmsum bygðarlögum í Nýja Íslandi. Auk þess hefir hann heimsótt Íslendinga í Keewatin og Rat Portage, og þá sem búa á ýmsum stöðum meðfram Norðvestur-brautinni. Einusinni heimsótti hann nýlenduna íslenzku á vesturströnd Manitoba-vatns, svo og Vatnsdalsnýlenduna, Brandon-söfnuð og Íslendinga í Carberry. Á öllum þessum stöðum hefir hann prédikað og skírt börn.

Það, sem borgað hefir verið úr kirkjufélagssjóði fyrir missiónarstarf, sést af ársskýrslu féhirðis, svo og upphæð gjafa þeirra, sem félaginu hafa verið sendar frá fólki, er slíkrar prestþjónustu hefir notið.

Það, sem kirkjufélagið hefir gjört á árinu í missiónaráttina, sýnist hvervetna hafa verið vel metið af almenningi. Ættu þær undirtektir, sem viðleitni sú frá hálfu kirkjufélagsins hefir fengið hjá trúarbræðrum á meðal þjóðflokks vors hér, og hinn hlýi hugur til félagsins, sem hún hefir vakið og glætt, að verða oss ný hvöt til þess að halda áfram verkinu og láta oss fara fram, bæði hvað áhuga snertir fyrir missiónar-málinu, og vilja til þess að gjöra það fyrir málefnið sem oss er unt. Vonandi er, að það komi í ljós á þessu þingi og svo í verkinu á árinu, að oss hafi ekki farið aftur í þessu tilliti.

Samtalsfundir út af trúar- og kirkjumálum hafa verið haldnir í ýmsum söfnuðum kirkjufélagsins síðastl. haust. Í nóvember voru slíkir fundir haldnir í kirkju Selkirk- safnaðar og Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg (16. og 17.); þá í kirkjum Vídalíns-, Víkur- og Garðar-safnaða í N.-Dak. (19., 23. og 24.). Umræðuefnið á öllum þessum fundum var: *Sannur kristindómur*. Fjórir af prestum kirkjufélagsins voru á öllum þessum fundum (sjá „Sam." XIII, bls. 153—155). Á fundi fyrir prestakall séra Björns B. Jónssonar, sem haldinn var í Minneota, Minn., þ. 11. des., var umræðuefni haft hið sama. En af prestum var þar enginn nema heimapresturinn. Í kirkju Argyle safnaða (Fríkirkju- og Frelsis- safnaða) í Man. var samtalsfundur tvo daga í janúar, hinn 24. og 25. Umræðuefni þar fyrra daginn var: *Hvað eigum vér að lesa?*", en síðara daginn: *Lúterska kirkjan og aðrar kirkjur*". Fjórir af prestum kirkjufélagsins þar viðstaddir (sjá „Sam." XIII, bls. 181—184).

Hluttaka almennings í svona löguðum umræðum fer vaxandi. Og yfir höfuð voru fundir þessir allir fremur vel sóttir.

Skólamál kirkjufélagsins má heita að hafi legið í dái síðan í fyrra. Skólanefndin ekkert verulegt gjört annað en að fresta málinu og annast skólasjóðinn. Nefndin gjörir væntanlega grein, á þessu þingi, fyrir því, að málið hefir legið þannig í salti. Vonanda, að kirkjuþing þetta sjái ráð til þess að hrinda málinu áfram; því lengur má það ekki liggja svona, ef oss á ekki öllum að verða til óvirðingar.

Málið um inngöngu kirkjufélagsins í General Council liggur nú fyrir til úrslita. Eina ástæðan, sem til kynni að vera fyrir því, að vér hikuðum oss við að tengjast þeirri aðaldeild lútersku kirkjunnar í Ameríku, er tilhneiging hinna kirkjulegu leiðtoga þar margra til að flýta því sem allra mest, að innfluttu þjóðflokkarnir taki upp enska tungu, — eða, að meðal þeirra sé sem allra fyrst farið að viðhafa það mál í kirkjunni. Til

þess finna vitanlega Þjóðverjar margir og Svíar all-sárt.—þeir, er þegar hafa tengst General Council. Að því er trúarstefnu General Council-manna snertir, þá er þar vitanlega alls ekkert fyrir oss að óttast. Þeirra stefna þar er sannlútersk, oss alveg víst geðfeldari og hollari, en flestra eða allra annarra lúterskra kirkjuflokka í landinu. Frá því sjónarmiði er hiklaust óhætt að ráða til inngöngunnar.

Bandalög (Luther Leagues) fyrir unga fólkið í söfnuðunum, sjö að að tölu, eru enn í gangi. Ekkert nýtt hefir viðbæzt svo kunnugt sé. Sambandsfundur fyrir þau bandalög verður haldinn væntanlega, í sambandi við þetta ársþing kirkjufélagsins, eins og í fyrra.

Ein prestsvígsla hefir farið fram innan kirkjufélagsins síðan í fyrra eins og þegar er getið.

Engin kirkja verið vígð á árinu. En búist við, að meðan á þessu kirkjuþingi stendur verði vígð kirkjan hér að Hallson, sem ársþing þetta er haldið í, og sömuleiðis nágrannakirkjan, kirkja Pétursssafnaðar. Kirkjan í Selkirk hefir verið fullbygð á þessu ári. Hefir all-miklu verið til þess kostað, og er hún nú mjög ánægjulegt og virðulegt guðshús,—fólki þar til verulegs sóma.—Ýmsar aðrar kirkjur til stórra muna endurbættar og auðgaðar að áhöldum.

Reformaziónar guðsþjónustur, nálægt mánaðamótum október og nóvember, fara fjölgandi innan kirkjufélagsins. Fyrir samskotum, sem tekin hafa verið síðastliðið haust í ýmsum söfnuðum við þær guðsþjónustur, gjörir féhirðir kirkjufélagsins grein.

Bindindisprédikanir hafa af sumum prestanna verið fluttar, samkvæmt bending síðasta kirkjuþings.

Hin þrjú trúmála-tímarit vor halda áfram: ,,Sameiningin", Aldamót" og ,,Kennarinn". ,,Sam." var skuldlaus um nýár. En síðan hefir það blað aftur komist í skuld. Kirkjumyndirnar, sem ,,Sam." fór að koma með eftir síðustu áramót, með talsverðum aukakostnaði, hefði þó átt að vera fólki aukin hvöt til þess að standa í skilum við blaðið og vinna að útbreiðslu þess. ,,Aldamót" síðasta ár hafa verið prentuð í Winnipeg, enn vandaðri en áður að ytri frágangi.—Útbreiðsla kirkjurita vorra er enn langt of lítil.

Bókasafni kirkjufélagsins, sem enn er í vörzlum séra Jóns Bjarnasonar, samkvæmt ráðstöfun skólanefndarinnar, hafa bæzt eigi all-fáar bækur að gjöf frá Íslandi. Fyrir þeim bókagjöfum er kvittað í ,,Sam.".

Mótspyrna utan frá gegn starfsemi kirkjufélagsins er ekki teljandi. Og í þeim söfnuðum, sem njóta stöðugrar og reglubundinnar prestþjónustu, fer kristindómsáhuginn sýnilega vaxandi.

Með Samúel getum vér sagt: ,,Hingað að hefir drottinn hjálpað oss" (1. Sam. 7,12.). Fyrir náð hans höfum vér komist áfram og unnið bug á ýmsum erfiðleikum, sem við hefir verið að stríða, en ekki er það vorum dugnaði að þakka. Lítandi til sjálfra vor, tilheyrir oss blygðan vors auglitis vegna vorra mörgu synda; en lítandi til drottins, sem oss hefir leitt með líknarstaf sínum og blessað vort vesæla kirkjustarf, getum vér öruggir unnið að verkinu í trausti til hans, sem hjálpað hefir hingað til, og hvatt hvern annan áfram í Jesú nafni.

Skrifari las upp hinar gildandi fundarreglur fyrir þingið.

Þá fór fram kosning embættismanna, sem lyktaði þannig, að séra Jón Bjarnason var kosinn forseti; séra N. S. Þorláksson, varaforseti; séra B. B. Jónsson, skrifari; séra J. J. Clemens, varaskrifari; Jón A. Blöndal, féhirðir.

Með því að annar yfirskoðunarmaður kirkjufélagsreikninganna var ekki viðstaddur á þingi var B. T. Björnsson kosinn í hans stað.

Í nefnd til að íhuga ársskýrslu forseta voru kosnir, séra B. B. Jónsson, B. J. Brandsson og séra R. Marteinsson.

Séra J. J. Clemens stakk upp á því og Björn Jónsson studdi, að sömu nefnd sé falið á hendur að veita málum móttöku og raða þeim á dagskrá, og var það samþykt.

Séra Jón J. Clemens lagði fram eftirfylgjandi beiðni frá St. Jóhannesar söfnuði um inntöku í kirkjufélagið

Bardal, Man. 14. júní 1899.

Séra J. J. Clemens:—

Vér undirritaðir, fulltrúar St. Jóhannesar-safnaðar, biðjum yður að bera fram beiðni fyrir söfnuð vorn um inngöngu í hið lúterska kirkjufélag Íslendinga i Vesturheimi.

Í umboði safnaðarins:

Kristján J. Bárdal,
Kristján J. Matthieson,
Jón Abrahamsson,
Kristán Abrahamsson,
Friðrik Kr. Abrahamsson.

Séra Jón mælti með því, að söfnuðinum væri veitt innganga,

Séra Jónas A. Sigurðsson stakk upp á, að þriggja manna nefnd sé sett til að íhuga beiðni safnaðarins. Jón Björnsson studdi uppástunguna og var hún samþykt. Í nefndina kvaddi forseti séra Jón J. Clemens, Jóhannes Pétursson og Björn Jónsson.

Björn Jónsson stakk uppá og Jóhann Sigurðsson studdi, að skrifara sé falið á hendur að annast bókun fundargjörninganna og útgáfu þeirra á prenti, og var það samþykt.

Séra Jón J. Clemens stakk upp á, að skrifara sé falið að láta prenta grundvallarlög, aukalög og fundarreglur kirkjufélagsins í sérstökum bæklingi. Samþykt.

Fundi slitið.

Þriðji fundur, sama dag kl. 8 e. h.

Sungin voru tvö vers af sálminum 59. Allir á fundi nema Jón Frímann og Pálmi Hjálmarsson, sem fjarverandi voru með leyfi forseta, og Jakob Benediktsson.

Björn Jónsson lagði fram svohljóðandi nefndarálit:

Vér, sem kosnir vorum í nefnd til að íhuga beiðni St. Jòhannessafnaðar um inngöngu í kirkjufélagið, sjáum að vísu formgalla á umsókninni þar sem það er ekki tekið fram, að söfnuðurinn hafi samþykt grundvallarlög kirkjufélagsins. En, með því einum nefndarmanna er kunnngt um, að söfnuðurinn hefir samþykt bæði grundvallar- og safnaðar-lög kirkjufélagsins, ráðum vér þinginu til að taka umsòknina gilda og söfnuðinn inn i kirkjufélagið.

Nefndarálitið var borið upp og samþykt í einu hljóði.

Séra Björn B. Jónsson lagði fram eftirfylgjandi nefndarálit:

Nefndin, sem kosin var til að íhuga ársskýrslu forseta og tilbúa dagskrá þingsins, leggur fram svolátandi álit sitt:

Vér viðurkennum með hjartanlegu þakklæti, hversu gòður guð hefir oss verið á hinu liðna ári og blessað vort veika og fátæka kirkjufélag, verndað oss frá árásum utanað frá og veitt oss frið innbyrðis.

Vér finnum ástæðu til að minnast með þakklæti á hið mikla starf vors háttvirta forseta, séra Jóns Bjarnasonar, sem nú er oss fjarlægur, og biðjum drottinn að leiða hann, ásamt séra Fr. J. Bergmann, heilan á hòfi hingað til vor aftur.

Vér lýsum ánægju vorri yfir starfi og skýrslu hins setta forseta og biðjum honum guðs blessunar í starfi hans framvegis.

Vér viljum vekja athygli þingsins á þvi,sem í skýrslunni er tekið fram viðvíkjandi samtalsfundum, reformaziònar-hátíðum og bindindisprédikunum, án þess atriði þessi séu gjörð að reglulegum kirkjuþingsmálum. Vér mælum eindregið með því,að prestar kirkjufélagsins haldi, eins og að undanförnu, samtalsfundi þar, sem því verður við komið, og að prestar og safnaðarfólk leggi sem mesta rækt við þá. Ennfremur mælum vér sterklega með því, að remormaziónarinnar sé minst á tilhlýðilegan hátt á þeim degi, sem alment er helgaður því málefni í hinni lùtersku kirkju þessa lands, svo hin helga minning um siðbòtina og það, sem vér eigum henni að þakka, ekki líði úr hugum fòlks vors, heldur glæðist og eflist. Einnig álítum vér það gagnlegt og skyldugt, að prestar prédiki um bindindi og leitist við að sýna mönnum hin skaðlegu áhrif ofdrykkjunnar og vari menn við þeirri spilling, sem henni er samfara.

Þau mál, sem vér finnum ástæðu til að setja á dagskrá þingsins, eru þessi:

1. Missiònar-málið.
2. Sunnudagsskòla-málið.
3. Skòlamálið.

4. General Council-málið.
5. Sameiningin.
6. Grundvallarlagabreyting.
7. Sálmabókarmál.

Nefndarálitið var samþykkt óbreytt.

Fyrsta mál á dagskrá, missiónar-málið, var þá tekið til meðferðar. Eftir nokkrar umræður stakk Björn Jónsson upp á, en Björn Sigvaldason studdi, að sett sé fimm manna nefnd til að íhuga málið, og var uppástungan samþykkt. Í nefndina kvaddi forseti séra Rúnólf Marteinsson, séra Odd V. Gíslason, Björn Jónsson, Bjarna Marteinsson og Jón Kristjánsson.

Séra Jón J. Clemens gat þess, að annar söfnuður sinn hefði boðið að gefa sig lausan eins mánaðar tíma til að vinna að missiónar starfi í einhverjum hinum prestlausu söfnuðum.

*Sunnudagsskóla-málið.*

Séra Björn B. Jónsson skýrði með nokkrum orðum frá hag sunnudagsskólanna og sunnudagsskólablaðsins, ,,Kennarans''.

Séra Jón J. Clemens stakk upp á því, að sett yrði fimm manna nefnd í málið, og var það samþykkt. Þessir útnefndir í nefndina: séra J. J. Clemens, S. Th. Westdal, Gamalíel Þorleifsson, B. T. Björnsson og B. J. Brandsson.

*General Council-málið*

var þá tekið fyrir og rætt all-lengi. Kl. 10 var fundi slitið, og sungið 3. og 5. vers af sálminum 59.

Fjórði fundur, kl. 9 f. h. 24. júní.

Sunginn sálmurinn 578. Séra J. J. Clemens las 4. kap. í bréfi Páls til Efesusmanna og flutti bæn.

Allir voru á fundi nema Jabob Benediktsson (forfallaður). Fundargjörningar frá 1., 2. og 3. fundi voru lesnir upp og samþyktir.

*General Council-málið* var þá aftur tekið fyrir. Eftir all-langar umræður var sett fimm manna nefnd í málið, samkvæmt uppástungu séra J. J. Clemens. Þessir voru settir í nefndina: séra J. A. Sigurðsson, séra N. S. Þorláksson, Jón Björnsson, Jóhannes Einarsson, Jóhann Sigurðsson.

Fundi var slitið kl. 11 f. h. og ákveðið, að næsti fundur

yrði ekki fyr en kl. 7 um kvöldið sökum jarðarfarar, er fram átti að fara í kirkjunni eftir hádegið, og til að gefa hinum ýmsu nefndum tíma til að starfa.

Fimti fundur, sama dag kl. 7 e. h.

Sungið 3. vers af sálminum 55. Allir á fundi nema Jakob Benediktsson.

*Skólamálið*

var þá tekið fyrir. Sigtryggur Jónasson lagði fram eftirfylgjandi skýrslu og tillögu frá skólanefndinni:

Vér undirskrifaðir, sem kosnir vorum á síðasta kirkjuþingi sem stjórnarnefnd (Board of Directors) hins fyrirhugaða lærða skóla (Academy's) kirkjufélagsins, leyfum oss að leggja fram eftirfylgjandi skýrslu um starf vort síðan á seinasta kirkjuþingi.

Síðan vér vorum kosnir, sem stjórnarnefnd, höfum vér haft nokkra fundi til þess að ráðstafa ýmsum málefnum skòlasjòðsins. Á fyrsta fundinum, er vér héldum í Winnipeg, hinn 30. júní 1898, í samræmi við samþykt, er gjörð var á síðasta kirkjuþingi, sömdum vér við Mr. Thos. H. Johnson, lögfræðisnemanda, að annast um bókfærslu skólasjóðsins gegn $25.00 þóknun á ári.

Út af samþyktinni, sem gjörð var á síðasta kirkjuþingi, í þá átt að fela oss að ákveða hinum fyrirhugaða skóla (Academy) kirkjufélagsins heimili í Winnipeg fyrir lok síðastliðins árs (1898), ef ákveðinn styrkur fengist til hans í Winnipeg-bæ eða annarsstaðar í Canada, þá leyfum vér oss að skýra frá, að þótt vér fengjum loforð fyrir all-miklum styrk í Winnipeg til skólans vantaði samt mikið á, að þau loforð nægðu til að fullnægja skilyrðum þeim er sett voru fyrir því, að vér ákvæðum honum heimili í Winnipeg, svo vér gjörðum engar ráðstafanir í þá átt. Vér leyfum oss einnig að skýra frá, að vér höfum engin tilboð fengið um styrk handa skólanum frá öðrum bæjum, hvorki í Norður.Dakota né Manitoba, ef skólanum væri ákveðið heimili þar, síðan á seinasta kirkjuþingi, svo vér höfum ekki ákveðið honum heimili neinstaðar, né gjört ráðstafanir til að löggilda stofnunina, hvorki í Dakota, né Manitoba.

Með því að hinum fyrirhngaða skóla kirkjufélagsins hefir þannig ekki verið ákveðið heimili, og með því það var viðurkent í samþykt síðasta kirkjuþings, að Winnipeg-bær væri að ýmsu leyti betur settur en aðrir bæir í Manitoba og nærliggjandi ríkjum sem heimili skólans, og með því vissa er fengin fyrir því, að Winnipeg-búar, aðrir en einstakir Íslendingar. eru reiðubúnir að leggja fram all-mikið fé í byggingarsjóð skólans, og með því, ennfremur, að vér álítum sérlega nauðsynlegt fyrir þetta mál, að skólanum verði ákveðið heimili á þessu ári, skólastofnunin löggilt á næsta vetri og kensla byrjuð eins fljótt og unt er,—leyfum vér oss að koma fram með eftirfylgjandi tillögu. sem vér ráðum kirkjuþinginu til að samþykkja:

Kirkjuþingið gefur skólanefnd þeirri (Board of Directors), sem kosin

verður á þessu þingi til þess að hafa á hendi og annast öll málefni hins fyrirhugaða lærða skòla (Academy) kirkjufélagsins og skólasjòð þess, fult vald til þess, að leita eftir og taka á mòti styrk í peningum og landi hjá Winnipeg-búum, íbúum Manitoba-fylkis og annara Canada-fylkja, annara en einstakra Íslendinga, og, ef nefndinni virðist styrkur sá, er hún þannig fær vissu fyrir, nægur til þess að ráðlegt sé að byrja skòlann, skal hún hafa fult vald til að ákveða skólanum heimili í Winnipeg, löggilda skólastofnunina undir lögum Manitoba-fylkis, gjöra allar nauðsynlegar ráðstafanir til að byrja skólann í leigðu húsnæði, og gjöra hvað annað, sem útheimtist til að koma skòlanum á stofn, hið allra bráðasta. Ef nefndin álitur að hún fái ekki nægnn styrk til að stofna skólann í Winnipeg, eins og að ofan er sagt, má nefndin leita eftir og taka á móti styrk í öðrum bæjum í Manitoba og Norður-Dakota, ákveða honum heimili þar, löggilda hann í því fylki eða ríki, þar sem honum er ákveðið heimili, og gjöra allar nauðsynlegar ráðstafanir til að byrja skòlann þar.

Vér leggjum fram á þessu kirkjuþingi reikninga skólasjòðsins, sem sýna ástand hans, og nemur hann nú í alt $5,737.68. Hann hefir þanuig aukist um $411.90 á árinu.

Að endingu leggjum vér það til, að þingið feli skòlanefndinni að gjöra duglegar ráðstafanir til að safna fé í skòlasjòðinn, á meðal Íslendinga, strax og hún hefir ákveðið skòlanum heimili.

Sigtr Jònasson (formaður.
Fr. Friðriksson.
Jònas A. Sigurðsson.
M. Paulson.
B. B. Jònsson.

Eftir langar umræður um þetta mál kom fram uppástunga frá G. B. Björnssyni, studd af Jóni Björnssyni, að nefndarálitið sé samþykt óbreytt.

Sigtr. Jónasson stakk upp á að fundi sé frestað til næsta mánudags á venjulegum tíma og var það stutt og samþykt.

Sunginn sálmurinn 532. Fundi slitið.

Sjötti fundur, kl. 9 f. h. 26. júní.

Fyrst var sunginn sálmurinn 515, Séra Rúnólfur Marteinsson las kafla í ritningunni og flutti bæn.

Gjörðabók frá 4. og 5. fundi var lesin upp og samþykt.

Féhirðir kirkjufélagsins, Jón A. Blöndal, lagði fram reikninga kirkjufélagsins sem fylgir:

JAFNAÐARREIKNINGUR KIRKJUFÉLAGSINS, 23. JÚNÍ 1899.

Tekjur:

| | | |
|---|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári ................................ | | 325 32 |
| Meðtekið gjald frá Mikleyjarsöfn ...................... | 1 35 | |

| | | |
|---|---|---|
| Brandon-söfn | 2 00 | |
| Marshall-söfn | 1 71 | |
| Þingvallanýlendu-söfn | 4 80 | |
| Þingvallasöfn | 6 00 | |
| Vesturheimssöfn | 3 00 | |
| St. Páls-söfn | 6 35 | |
| Garðar-söfn | 15 00 | |
| Hallson-söfn | 5 10 | |
| Pétursöfn | 6 65 | |
| Fyrsta lút. söfn. í Winnipeg | 22 50 | |
| Fríkirkjusöfn | 6 50 | |
| Selkirk-söfn | 2 90 | |
| Melanktonssöfn | 4 10 | |
| Fjallasöfn | 3 05 | |
| Brandon-söfn | 2 00 | |
| Víkursöfn | 9 25 | |
| Lincoln-söfn | 6 75 | |
| Grafton-söfn | 2 40 | |
| Frelsissöfn | 13 10 | |
| | | 124 51 |
| Meðtekin tillög í missiónar-sjóð frá Hallson-söfn | 2 50 | |
| Pétursöfn | 2 00 | |
| Grafton-söfn | 2 30 | |
| Pembina-söfn | 3 75 | |
| Vídalínssöfn | 5 55 | |
| Víkurssöfn | 4 00 | |
| Gardar-söfn | 11 00 | |
| Argyle-söfnuðum | 11 00 | |
| Winnipeg-söfn, | 18 62 | |
| Álftavatnsnýlendu | 22 50 | |
| Fjallasöfn | 4 10 | |
| Coll. per Rev. R. Marteinss. í maí, júní, júlí, ág. | 43 25 | |
| Frá séra N. S. Þorlákss. fyrir Fundarreglur | 2 00 | |
| Úr prestakalli séra B. B. Jónssonar | 12 00 | |
| Úr Albertanýlendunni | 10 00 | 154 57 |
| | | 604 40 |

Útgjöld:

| | | |
|---|---|---|
| Borgað fyrir ritföng á kirkjuþingi 1898 | 50 | |
| " Laun séra R. Marteinssonar | 159 75 | |
| " Ferðakostnaður " | 38 93 | |
| " Ýmisleg útgjöld | 3 85 | |
| " Séra O. V. Gíslasyni | 25 00 | |
| Mismunur | 376 37 | |
| | | 604 40 |

Eftirfylgjandi vottorð yfirskoðunarmanna var þá lesið upp og samþykt;

Vér undirskrifaðir höfum yfirfarið reikninga kirkjufélagsins og lýsum yfir því að þeir eru réttir og greinilega færðir.

Hallson, N.-Dak., 26, júní 1899.
Jón Thòrdarson, B. T. Björnsson,
yfirskoðunarmenn.

Féhirðir kirkjufélagsins gat ennfremur um, að Vídalíns-söfnuður hefði borgað sér $14.50 og Pembina-söfnuður $5.52, sem ekki hefði getað komið í þessa árs reikningum.

*Skólamálið* var þá tekið fyrir á ný þar sem hætt hafði verið við það á langardagskvöldið. B. J. Brandsson gjörði svo hljóðandi breytingar-uppástungu við uppástunguna, sem lá fyrir, um að samþykkja nefndarálitið óbreytt.

Nefndarálitið sé samþykt með þeirri breytingu, að nefndinni, sem kosin verður á þessu kirkjuþingi.sé veitt leyfi til að ákveða hinum fyrirhugaða skóla heimili í Winnipeg ef hún getur útvegað honum $5000.00 styrk í peningum frá íbúum Winnipeg-bæjar og öðrum mönnum í Canada, utan einstakra Íslendinga, og svo hæfilegan grunn fyrir skòlann innan takmarka Winnipeg-bæjar.

Ef jafnmikill eða meiri styrkur skildi bjòðast frá öðrum bæjum í Manitoba, N.-Dak., eða Minnesota, skal það vera á valdi nefndarinnar að ákveða skólanum heimili þar. Ennfremur skal nefndin hafa leyfi til að borga ferðakostnað og laun manns, sem vinni sérstaklega að því að þessi styrkur fáist, hvort heldur í Winnipeg eða annarsstaðar, og skal það vera á valdi nefndarinnar, hvort hún vill útvega og ráða mann t:l þessa starfa eða ekki.

Tómas Halldórsson studdi breytingar-uppástunguna.

Jón Sigfússon gjörði þá breytingar-uppástungu við breytingar-uppástunguna, að hin ákveðna upphæð sé $6,000 í staðinn fyrir $5,000. Sigurður Sigurðson studdi þessa breytingu. Eftir all-langar umræður um hina síðari breytingar-uppást. var samþykt að slíta umræðum um hana. Við atkvæðagreiðsluna fór fram nafnakall og féllu atkvæði þannig:

Já sögðu:—G. Þorleifsson, S. Sigurðsson, S. Bergmann, S. Björnsson, J. Sigurðsson, S. S. Grímsson, P. Hjálmarsson, J. Benediktsson, J. Frímann, H. B. Jónsson, J. Sigfússon og J. Kristjánsson.—Alls: 12.

Nei sögðu:—Séra B. B. Jónsson, séra R. Marteinsson, séra O. V. Gíslason, J. A. Blöndal, G. B. Björnsson, S. T. Westdal, J. Pétursson, Þ. Pétursson, S. Sölvason, Þ. Jóhannesson, T. Halldórsson, G. Ingimundarson,, J. Þórðarson, B. Marteinsson, J. Erlendsson, E. G. Eiríksson, G. Jóhannsson, M. Jónsson, M. Pálsson, S. Jónasson, H. S. Bardal, B.

T. Björnson, Björn Jónsson, B. Sigvaldason, F. Friðriksson, J. Björnsson, B. J. Brandsson og J. Einarsson.—ALLS: 28.

Séra J. A. Sigurðsson og séra J. J. Clemens greiddu ekki atkvæði.

Hin síðari breytingar-uppástunga var þannig feld og málið, samkvæmt úrskurði þingsins, komið á sama stig og áður, og lá því breytingar-uppást. B. J. Brandssonar fyrir. Við hana gjörði svo Friðjón Friðriksson þá breytingar-uppástungu, að í staðinn fyrir $5,000 komi $4,000, og var hún studd, en var feld þegar hún var borin undir atkvæði.

Þá var bgeytingar-uppástunga B. J. Brandssonar borin upp til atkvæða. Nafnakall var viðhaft.

JÁ SÖGÐU:—Séra R. Marteinsson, J. Pétursson, Þ. Pétursson, S. Sigurðsson, S. Bergmann, S. Sölvason, T. Halldórss., J. Erlendsson, G. Jóhannsson, J. Kristjánsson, B. T. Björnson, B. J. Brandsson.—ALLS: 12.

NEI SÖGÐU:—Séra N. S. Þorláksson, séra B. B. Jónsson, séra O. V. Gíslason, J. A. Blöndal, G. B. Björnsson, S. T. Westdal, Þ. Jóhannesson, S. S. Grímsson, J. Benediktsson, J. Frímann, H. B. Jónsson, G. Ingimundarson, B. Marteinsson, E. G. Eiríksson, M. Jónsson, J. Sigfússon, M. Pálsson, S. Jónasson. H. S. Bardal, Björn Jónsson, B. Sigvaldason, F. Friðriksson, J. Björnsson, J. Einarsson.—ALLS: 24.

Atkvæði greiddu ekki þessir 5:—Séra J. J. Clemens, G. Þorleifsson, S. Björnsson, J. Sigurðsson og J. Þórðarson.

Breytingar-uppástungan var þannig feld.

Þá var nefndarálitið sjálft borið undir atkvæði og nafnakall við haft.

JÁ SÖGÐU:—Séra N. S. Þorláksson, séra B. B. Jónsson, séra O. V. Gíslason, J. A. Blöndal, G. B. Björnsson, S. T. Westdal, Þ. Jóhannesson, G. Ingimundarson, B. Marteinsson, J. Þórðarson, E. G. Eiríksson, M. Jónsson, M. Pálsson, S. Jónasson, H. S. Bardal, B. Jónsson, B. Sigvaldason, F. Friðriksson, J. Björnsson, J. Einarsson—ALLS: 20.

NEI SÖGÐU:—G. Þorleifsson, S. Sigurðsson, S. Björnsson, J. Sigurðsson, T. Halldórsson, S. S. Grímsson, J. Benediktsson, J. Frímann, H. B. Jónsson, J. Sigfússon, J. Kristjánsson, B. T. Björnson, B. J. Brandsson,—ALLS: 14.

En þessir 8 greiddu ekki atkvæði:—Séra J. J. Clemens,

séra R. Marteinsson, Þ. Pétursson, J. Erlendsson, G. Jóhannsson, J. Pétursson, S. Bergmann og P. Hjálmarsson.

Fundi var svo frestað til kl. 7 um kvöldið og tekið fram, að Bandalags-þingið yrði haldið eftir miðdaginn.

Sjöundi fundur, sama dag, kl. 7 e. h.

Byrjað var með því að syngja sálminn 316.—Allir á fundi.

Magnús Pálsson stakk upp á því, að uppástungan um að samþykkja skólanefndar-álitið sé á ný yfirveguð. G. Ingimundarson studdi það og var það samþykt. Atkvæðagreiðsla um nefndarálitið fór því fram á ný og var nafnakall við haft.

JÁ SÖGÐU:—Séra J. A. Sigurðsson, séra B. B. Jónsson, séra J. J. Clemens, séra O. V. Gíslason, J. A. Blöndal, G. B. Björnsson, S. T. Westdal, J. Pétursson, Þ. Jóhannesson, G. Ingimundarson, B. Marteinsson, J. Þórðarson, E. G. Eiríksson, G. Jóhannsson, M. Jónsson, M. Pálsson, S. Jónasson, H. S. Bardal, B. Jónsson, B. Sigvaldason, F. Friðriksson, J. Björnsson og J. Einarsson.—ALLS: 23.

NEI SÖGÐU:—Séra R. Marteinsson, Þ. Pétursson, G. Þorleifsson, S. Sigurðsson, S. Bergmann, S. Björnsson, J. Sigurðsson, S. Sölvason, T. Halldórsson, S. S. Grímsson, P. Hjálmarsson, J. Benediktsson, J. Frímann, H. B. Jónsson, J. Erlendsson, J. Sigfússon, J. Kristjánsson, B. T. Björnson og B. J. Brandsson.—ALLS: 19.

Forseti lýsti þá yfir því, að nefndarálitið væri samþykt.

*Grundvallarlagabreytingar-málið*

var svo tekið fyrir. Nefndarálitið í því frá síðasta kirkjuþingi, sem réði til að úr 1. lið 8. gr. falli burt ákvæðið um almennar umræður á kirkjuþingum, að úr 2. lið sömu greinar sé felt ákvæðið um upplestur gjörðabókar og síðari liður 9. greinar, um fjarveru þingmanna, sé felt burt, var borið upp til atkvæða og samþykt.

Magnús Pálsson lagði fram reikninga skólasjóðsins, sem hér fara á eftir.

TEKJUR OG ÚTGJÖLD.

| | |
|---|---|
| Eignir skólasjóðsins 1. júlí 1898 | $5,337.68 |
| Vextir á árinu (greiddir) | 382.20 |
| Vextir á árinu (óborgaðir) | 34.37 |
| Vextir á árinu innifaldir í endurnýjuðum nótum | 3.50 |
| Gjafir á árinu | 15.00 |
| Ágóði af Aldamótum 1897 | 27.47 |
| Flyt | $5,800.22 |

| | |
|---|---|
| Flutt | 5800.22 |
| Útgjöld á árinu | 50.55 |
| Mismunur | $5,749.67 |

Eignir skólasjóðsins 30. júní 1899.

| | |
|---|---|
| Nótur | $2,185.54 |
| Mortgages | 1,127.35 |
| Peningar á bönkum (gegn vöxtum) | 1,702.74 |
| Peningar hjá féhirði | 699.67 |
| Áfallnir vextir, óborgaðir | 34.37 |
| | $5,749.67 |

Vér, sem kosnir vorum til þess að yfirskoða hina ýmsu reikninga kirkjufélagsins fyrir árið, sem endar þann 30. júní þ. á., höfum nú lokið því starfi og lýsum yfir því, að allir reikningarnir eru réttir og vel færðir. Reikningar þeir, er við höfum yfirskoðað, eru: reikningar yfir tekjur og útgjöld kirkjufélagsins, „Sameiningarinnar og skólasjóðsins.

Vér höfum samið nákvæmt yfirlit yfir hag skólasjóðsins, sem vér leyfum oss að leggja fyrir þingið, og vonum að það gefi yður ljósa hugmynd um hvernig hagur þess sjóðs stendur.

Allar tryggingar gegn láni úr skólasjóði, hvort heldur veðbref eða ábyrgð einstakra manna, eru að voru áliti góðar, og það fé, sem í útlánum er, því í alla staði óhult.

Á kirkjuþingi, 26. júní 1899.

J. Thordarson, B. T. Björnsson,
yfirskoðunarmenn.

Reikningsskýrsla nefndarinnar var viðtekin samkvæmt uppástungu Jóhanns Sigurðssonar, er var studd og samþykt.

Þingið greiddi skólanefndinni þakklætis atkvæði fyrir starf hennar, sömuleiðis yfirskoðunarmönnunum.

Séra J. J. Clemens stakk upp á því, að þingið veiti fulltrúum skólans vald til að ráða mann, ef þeim sýnist, upp á kostnað skólasjóðsins til að safna fé til framkvæmdar því, er nefndarálitið gjörir ráð fyrir, og var uppástungan studd og samþykt.

Þá var gengið til kosninga og voru þessir kjörnir: séra B. B. Jónsson, S. Jónasson, F. Friðriksson, M. Pálsson og séra J. A. Sigurðsson.

*Sunnudagsskólamálið*

var svo tekið fyrir á ný. Séra J. J. Clemens, framsögumaður nefndarinnar í því máli, lagði fram álit nefndar sinnar. Eftir nokkrar umræður í málinu var álitinu vísað aftur til nefndarinnar. Eftir að nefndin hafði breytt áliti sínu lítillega lagði séra Jón það fram aftur eins og hér fer á eftir;

Nefndin, sem sett var á þessu kirkjuþingi til að íhuga sunnudagsskólamálið, leyfir sér að leggja fram eftirfylgjandi álit:

Vér erum á þeirri skoðan, að ritstjórar „Kennarans" eigi miklar þakkir skilið fyrir að hafa gjört blaðið eins vel úr garði eins og þeir hafa gjört. Vér mælum með því, að útgefandi þess haldi áfram að gefa það út, eins og hann hefir gjört, sjái hann sér það fært; að ritstjórinn, séra Björn B. Jònsson, með aðstoð séra Jònasar Sigurðssonar, hafi á hendi ritstjórn blaðsins; og að unnið sé að útbreiðslu þess í söfnuðum vorum, eftir ýtrasta megni.

Vér álítum það einnig mjög æskilegt, að sunnudagsskóla-starfseminni sé meiri gaumur gefinn á kirkjuþingum vorum heldur en hefir átt sér stað hingað til. Þess vegna leyfum vér oss að gjöra þá tillögu, að í sambandi við hvert kirkjuþing sé hálfum degi varið til að ræða um þetta mál; að kosin sé nefnd til að halda sunnudagsskóla-starfseminni í réttu horfi; að þessi nefnd gjöri sér far um, (1) að koma sunnudagsskólum á í öllum söfnuðum vorum, (2) að efla og styrkja sunnudagsskólamálefnið með ráðum og ritum, (3) að þessi nefnd, með aðstoð forseta kirkjufélagsins, hafi á hendi allan undirbúning þeirra mála, sem nefndin ákveður að rædd verði á sunnudagsskòla-fundunum.

Nefndarálitið, þannig útbúið, var borið upp til atkvæða og samþykt.

Sunginn var sálmurinn 546, og fundi síðan slitið.

## Áttundi fundur, kl. 9 f. h., 27. júní.

Fyrst var sunginn partur af sálminum 427. Séra O. V. Gíslason las 3. sálm Davíðs og flutti bæn.

Allir voru á fundi nema S. T. Westdal og S. Jónasson, er voru farnir af þingi með leyfi forseta, og Jón Frímann og Jón Sigfússon.

Gjörðabók 5. og 6. fundar var lesin og samþykt.

### *Missíónarmálið*

var þá tekið fyrir, og lagði séra R. Marteinsson fram álit nefndarinnar í því máli. Nefndin kom með meiri- og minnihluta nefndarálit, og var hið síðara tekið fyrir, er hljóðar svo:

Með því breytingar-atkvæði, að séra R. Marteinsson verði á þessu kirkjuþingi ráðinn sem missíónar-prestur kirkjufélagsins til næsta kirkjuþings, 1900, frá þeim tíma að núverandi þjónustu hans í Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg er lokið, á komandi hausti, er ég samþykkur ofangreindu nefndaráliti. O. V. Gíslason.

Séra B. B. Jónsson gjörði svo hljóðandi breytingar-uppástungu við breytingar-tillögu minnihlutans:

Stjórn kirkjufélagsins sé falið, að semja við séra R. Marteinsson um

þjónustu í þarfir missíónarinnar frá þeim tíma að hann hættir þjónustu Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg til næsta kirkjuþings.

Magnús Pálsson studdi þessa breytingar-uppástungu við minnihluta-nefndarálitið, og var hún samþykt í einu hljóði.

Séra Jón J. Clemens stakk upp á, að nefndarálitið sjálft sé tekið fyrir lið fyrir lið, og var það stutt og samþykt.

Fyrsti liður var samþyktur mótmælalaust, og var svo annar liðurinn tekinn til umræðu.

Séra Jón J. Clemens gjörði þá breytingar-uppástungu, að forseta sé falið á hendur að ráðstafa ferðum prestanna til hinna prestlausu safnaða. Uppástungan var studd, en féll við atkvæðagreiðsluna.

Séra B. B. Jónsson stakk upp á, að þessum lið sé vísað aftur til nefndarinnar og var það samþykt.

þriðji liður nefndarálitsins var þá tekinn fyrir og ræddur. Jón A. Blöndal stakk upp á, að orðin ,,fyrir ódugnað vorn'' falli burt; séra Jón J. Clemens studdi það, en eftir nokkrar umræður var uppástungan feld með 19 atkv. gegn 14. þá var þessi liður borinn undir atkvæði og samþyktur.

Annar liður nefndarálitsins, sem nefndin hafði lagt fram á ný með lítilli breytingu, var þá borinn undir atkv. og samþ.

Fjórði liður var þá tekinn fyrir.

Fundi frestað þar til kl. 2 e.h.

Níundi fundur, sama dag kl. 2 e. h.

Byrjað var með því að syngja sálminn nr. 8.—Allir á fundi nema Jón Frímann og B. Marteinsson (forfallaður).

Haldið áfram með missíónarmálið. Fjórði liður nefndarálitsins var borinn upp og samþyktur í einu hljóði. Fimti og sjötti liður voru sömuleiðis lesnir og samþ. í einu hljóði.

Síðan var nefndarálitið alt, með áorðnum breytingum, samþykt, og er það eins og hér fer á eftir:

Nefnd sú, sem sett var til að íhuga missíónarmálið, leyfir sér að leggja fram eftirfylgjandi tillögur:—

1. Vér ráðum til einbeittrar starfsemi í því máli á næstkomanda ári, því ekkert mál, sem vér höfum til meðferðar, krefst eins bráðlega sameiginlegrar umhugsunar og atorku allra meðlima kirkjufélagsins eins og missíónarmálið.

2. Vér ráðum til, að eftirfylgjandi prestar kirkjufélagsins heimsæki,

í samráði við forseta og eftir samkomulagi við söfnuði sína, eftirfylgjandi prestlaus bygðarlög:—

Séra Jón J. Clemens fari til Brandon, Pipestone og Hólabygðar.
Séra Jónas A. Sigurðsson til Roseau og Fjallabygðar (hinnar nýju).
Séra Björn B. Jónsson til Watertown (S. D.), Duluth, Minneapolis og Chicago (ef hægt er).
Séra O. V. Gíslason til Keewatin, Rat Portage, Westbourne, bæja og bygða meðfram Manitoba og Norðvestur-brautinni, Vatnsdals-nýlendu og Swan River-dalsins.

3. Vér mælum eindregið með því, að þetta kirkjuþing sendi séra Stefáni Pálssyni, sem nú, fyrir ódugnað vorn, þjónar prestakalli einu utan þjóðflokks vors í New York-ríki, köllun til að takast á hendur missíónar-starf fyrir kirkjufélagið og undir umsjón forseta þess, og byrji séra Stefán þá starfsemi eins fljótt og því verður við komið, og bjóði kirkjufélagið að ábyrgjast honum $600 laun um eitt ár.

4. Vér viljum minna hina fáu prestlausu söfnuði, sem til eru innan kirkjufélagsins, á það, að vera sér í útvegum með prestþjónustu eftir því sem föng eru á, og leiti þeir aðstoðar hjá þeim prestum kirkjufélagsins sem þeir helst vilja og geta snúið sér til, eða til kirkjuþingsins, og er ætlast til, að þeir söfnuðir standist kostnaðinn af prestþjónustu þeirri, eftir því sem kringumstæður leyfa.

5. Vér viljum tilkynna kirkjufélaginu það, að séra N. Stgr. Þorláksson býst við að fara um næsta nýár frá söfnuðum þeim í Park River, N. D., sem hann hefir þjónað um nokkur undanfarin ár, og er vonandi að Selkirk-söfnuður ráði hann, að minsta kosti að hálfu leyti, frá þeim tíma. Vér viljum leggja til, að forseta sé falið á hendur að veita honum missíónar-starf fyrir kirkjufélagið, að þeim hluta sem hann ekki starfar í Selkirk, frá 1. janúar 1900 til næsta kirkjuþings, og að forseti kirkjufélagsins ákveði borgun fyrir það starf.

6. Sumum hinum stærri prestlausu bygðarlögum: Manitoba-vatns- Álftavatns- og Alberta-bygðum, ennfremur suðurhluta Nýja-Íslands, bygðum Íslendinga meðfram Kyrrahafs-ströndinni og einnig bygð Ísl. í grend við Morden, Man., höfum vér ekki sérstaklega ráðstafað, en ætlumst til, að forseta kirkjufélagsins sé falið á hendur að brúka þá krafta, sem kirkjufélaginu til þess starfs veitast og ekki er öðruvísi ákveðið verk, til missiónar í þessum bygðarlögum, og hafi forseti kirkjufélagsins aðal-umsjón yfir missíónar-starfinu.

Séra Rúnólfur Marteinsson stakk upp á því, að skrifara kirkjufélagsins sé falið á hendur að senda séra Stefáni Pálssyni, í nafni kirkjufélagsins, köllunarbréf, samkvæmt því sem ráðið var til í nefndarálitinu, og var það samþykt.

Þar næst flutti séra N. Steingr. Þorláksson fyrirlestur sinn með fyrirsögninni ,,Steinar".

Séra Jónas A. Sigurðsson talaði nokkur þakkarorð til fyrirlesarans, og þingið greiddi honum þakklætisatkvæði.

Séra Jónas A. Sigurðsson flutti þinginu kveðju og blessunarósk frá séra Jóni Bjarnasyni, forseta kirkjufélagsins, úr bréfi, sem hann hafði nýskeð meðtekið frá honum, skrifuðu í Edinborg á Skotlandi 8. júní.

Eftir 10 mínútna fundarhlé var aftur tekið til fundarstarfa.

Séra Jónas A. Sigurðsson lagði fram svohljóðandi nefndarálit:

Nefndin í General Council-málinu leggur hér með fram álit sitt á þessa leið:

Í fimm ár hefir mál þetta verið árlega til meðferðar á þingum kirkjufélagsins, og sömuleiðis að einhverju leyti í flestum söfnuðum þess. Á þingum hafa menn talið það eitt hið langstærsta og þýðingarmesta mál, sem komið hafi inn á kirkjuþing, talið heiður þings og heill kirkjufélagsins bygða á framkvæmdum í því máli. Öll þessi ár hafa nefndir verið kjörnar, nema á síðasta þingi, sem starfa áttu að framkvæmd málsins. Málið hefir verið all-ýtarlega rætt, og um það skrifað meira en mörg önnur þingmál; formenn og leiðtogar þinganna og kirkjufélagsins hafa jafnan verið og eru enn *með* inngöngu kirkjufélagsins í General Council, og meirihluti þingmanna sömuleiðis. Sjálft General Council hefir sýnt oss margfalda velvild, tvívegis sent fulltrúa sína til þinga vorra, svarað öllum spurningum og greitt fyrir öllu snertandi inngönguna mjög fúslega. Margir söfnuðir kirkjufélagsins hafa einnig í liðinni tíð samþykt meðmæli með inngöngunni.

En þrátt fyrir öll slík meðmæli frá prestum kirkjufélagsins og samþyktir kirkjuþinganna, á sér enn stað svo raunalegur misskilningur eða vanskilningur á málinu hjá einstökum söfnuðum, sem birtir sorglegt vantraust á tillögum þeirra manna, er hafa um mál þetta fjallað í nafni og umboði kirkjufélagsins, að vér sjáum oss ekki fært að ráða til, að innganga kirkjufélagsins í General Council sé samþykt á þessu þingi, en vér ráðum til, að grundvallarlög og aukalög Gen. Councils verði þýdd og prentuð í „Sam," og málið enn skýrt fyrir fólki safnaðanna á árinu.

Ennfremur ráðum vér til, að sendur verði fulltrúi (Fraternal Delegate) frá kirkjufélaginu til að mæta á þingi General Council-manna, sem kemur saman í Chicago í haust. Skal hann kosinn á þessu þingi, og síðan hafa forgöngu þsss máls með höndum til næsta kirkjuþings.

Eftir nokkrar umræður var nefndarálitið borið upp til atkvæða og samþykt.

Þá var séra N. Stgr. Þorláksson kosinn í einu hljóði erindsreki kirkjufélagsins á þing General Conncils í Chicago í haust. Til vara var kosinn séra Björn B. Jónsson.

*Sálmabókarmálið*

var þá tekið fyrir. Séra J. A. Sigurðsson skýrði frá, að Sig-

fús Eymundsson í Reykjavík hefði gjört tilboð um, að gefa út sérstaka útgáfu af sálmabókinni, styttri og breytta, með guðsþjónustuformi kirkjufélagsins.

Eftir nokkrar umræður bar séra Björn B. Jónsson fram svo hljóðandi uppástungu:—,,Kosin sé þriggja manna milliþinga-nefnd, til að undirbúa útgáfu nýrrar sálmabókar, með guðsþjónustu- og kirkjuathafna-formum, og gjöra þær framkvæmdir í málinu, sem hún álítur heppilegastar".

Magnús Pálsson studdi uppástunguna, er svo var borin upp til atkvæða og samþykt.

M. Pálsson stakk upp á, að vikið sé frá þingsköpum og þegar í stað gengið til kosninga í þessa nefnd. Stutt og samþykt. Kosningu hlutu: séra Jón Bjarnason, séra Friðrik J. Bergmann og séra N. Steingrímur Þorláksson.

Björn Jónsson stakk upp á, að þriggja manna nefnd sé sett til að yfirskoða aukalög kirkjufélagsins, og var það stutt og samþykt. Forseti útnefndi í nefndina þá Björn Jónsson, séra J. J. Clemens og G. B. Björnsson. Fundi slitið.

Tíundi fundur, sama dag kl. 8 e. h.

Sunginn var sálmurinn nr. 58.

Fjarverandi voru: Jón Þórðarson og Gunnar Jóhannsson.

,,*Sameiningin*".

Reikningar blaðsins voru þá lagðir fram af hr. Jóni A. Blöndal, féhirði útgáfunefndarinnar, og höfðu þeir áður verið yfirskoðaðir af yfirskoðunarmönnunum (Jóni Þórðarsyni og B. T. Björnssyni). Samkvæmt þeirri skýrslu var blaðið í $39 skuld—við prentfél. ,,Lögbergs", B. Marteinsson, H. Tómasson og G. Jóhannsson. En í útistandandi skuldum var talið að blaðið ætti $1,524.58—eftir að 20 prct. hafði þó verið dregið frá fyrir afföllum á 14. árgangi.

G. B. Björnsson stakk upp á, að reikningarnir séu samþyktir, og var það stutt og samþykt.

Magnús Pálsson stakk upp á, að þingið votti Jóni Blöndal þakklæti sitt fyrir starf hans í þarfir ,,Sam.", og var það gjört. Sömuleiðis greiddi þingið séra Jóni Bjarnasyni þakklætisatkvæði fyrir starf hans sem ritstjóri.

Eftir nokkrar umræður um ,,Sam.'' stakk séra Björn B. Jónsson upp á því, að hinni fyrirhuguðu útgáfunefnd ,,Sam.'' sé falið að hafa á hendi alt það er lýtur að útgáfunni, og var það stutt og samþykt.

Sunginn var sálmurinn 530 og var fundi síðan slitið.

Ellefti fundur, kl. 9 f. h., 28. júní.

Fyrst var sunginn sálmurinn 312. Séra R. Marteinsson las I. Jóh. 5, og flutti bæn.

Farnir voru af þingi: M. Pálsson, Fr. Friðriksson og G. Ingimundarson. Fjarverandi voru: Jakob Benediktsson og Jón Þórðarson.

Gjörðabók frá 8., 9. og 10. fundi var lesin upp, leiðrétt og samþykt.

Björn Jónsson lagði fram svo hljóðandi nefndarálit :

Vér, sem þér settuð í nefnd til að yfirskoða aukalög kirkjufélagsins, ráðum til, að þar sem nú er 6. og 7. grein, komi tvær nýjar greinar, sem hljóði þannig :

,,6. gr. Forseti skal sjá um, að ekki færri en tveir fyrirlestrar, um kirkjuleg eða guðfræðileg mál, séu haldnir á hverju kirkjuþingi.''

,,7. gr. Þeir sem sæti eiga á þinginu, en eru fjarverandi án leyfis forseta, verða á fundi að gjöra grein fyrir fjarveru sinni, og sker forseti úr, hvort ástæðurnar séu gildar eða ekki.''

Hin núverandi 6. gr. verði 8. gr., 7. gr. að 9. gr. og 8. gr. að 10. gr.

11. gr. ,,Robert's Rules of Order'' eru viðteknar sem fundarreglur í þeim tilfellum sem engin ákvæði eru gjörð í fundarreglum kirkjufélagsins.

Séra Jónas A. Sigurðsson gjörði þessa breytingar-uppástungu við nefndarálitið :

Grein sú, sem nefndarálitið gjörir ráð fyrir sem síðustu grein (11. gr.) aukalaganna, falli burt, en sé bætt við fundarreglurnar, sem samþykt hefir verið að prenta að nýju.

B. T. Björnsson studdi uppástunguna, og var hún samþykt.

G. B. Björnsson stakk upp á, að skrifara sé falið að kaupa eitt eintak af ,,Robert's Rules of Order'' handa kirkjufélaginu, og var það stutt og samþykt.

Séra Jónas A. Sigurðsson stakk upp á, að þrír menn séu settir í nefnd til að ákveða tekjur kirkjufélagsins, og var það stutt og samþykt.

Forseti útnefndi í nefndina Jón A. Blöndal, Björn Jónsson og Pálma Hjálmarsson.

þá var gengið til kosninga um útgáfunefnd ,,Sameiningarinnar,“ og hlutu þessir kosningu: Séra J. Bjarnason, séra F. J. Bergmann, J. A. Blöndal, séra Rúnólfur Marteinsson og séra J. A. Sigurðsson.

Að því búnu var sunnudagsskólanefndin kosin, og hlutu þessir kosningu: Séra Björn B. Jónsson, B. J. Brandsson og H. S. Bárdal.

Séra Jónas A. Sigurðsson stakk upp á, að nefndin sé gjörð að fimm manna nefnd, og var það stutt og samþykt. Svo var stungið upp á, stutt og samþykt, að séra J. J. Clemens og Bjarna Marteinssyni sé bætt við í nefndina.

Yfirskoðunarmenn allra reikninga kirkjufélagsins voru kosnir: B. T. Björnsson og H. S. Bárdal.

Út af bendingu frá séra O. V. Gíslasyni, gjörði séra J. A. Sigurðsson þessa uppástungu:

,,Kirkjuþingið minnir söfnuði kirkjufélagsins á það, að eignast sem fyrst heilaga ritningu, til hagnýtingar við guðsþjónustur, í sem fegurstu og beztu ástandi.“

Uppástungan var studd og samþykt.

Séra Rúnólfur Marteinsson gjörði uppástungu um, að þingið gjöri svohljóðandi yfirlýsingu:

,,Kirkjuþingið lýsir yfir því áliti sínu, að það sé undir öllum kringumstæðum sjálfsagt, að þeir, sem veita tilsögn á sunnudagsskólum kirkjufélagsins, kenni ekkert það sem kemur í bága við trúarjátningar kirkjufélags vors.“ Stutt og samþykt.

Nefndin, sem sett var til að ákveða tekjur kirkjufélagsins, skýrði frá, að hún hefði komið sér saman um $175.00 upphæð. þingið samþykti þessa áætlun.

þá var tekið á móti boðum frá söfnuðunum um,að taka á móti kirkjuþingi næsta ár. Sigurður Sigurðsson flutti tilboð frá Garðar-söfnuði; Björn Jónsson, frá söfnuðunum í Argyle; H. S. Bárdal, frá söfnuðinum í Selkirk. þriggja manna nefnd var sett til að íhuga þessi boð, og voru valdir í hana Jón A. Blöndal, séra R. Marteinsson og Pálmi Hjálmarsson. Nefndin skýrði frá, að hún hefði komið sér saman um að ráða

til, að næsta þing verði haldið í Selkirk, og var tillaga nefndarinnar samþykt.

Fundi slitið.

Tólfti fundur, sama dag kl. 2 e. h.

Sungið var versið nr. 400.

Fjarverandi voru: J. Benediktsson og J. Þórðarson.

Þá byrjuðu hinar ákveðnu umræður um trúaratriðið: „*Guðlegur innblástur heilagrar ritningar*“. Fyrst flutti séra Björn B. Jónsson fyrirlestur um þetta efni, til innleiðslu málsins. Auk hans tóku þessir þátt í umræðunum: séra R. Marteinsson, séra J. J. Clemens, séra N. Stgr. Þorláksson, Jón Björnsson, J. Kristjánsson, Jóh. Pétursson, G. B. Björnsson, séra J. A. Sigurðsson, Þorst. Jóhannesson, Jóh. Sigurðsson, Pálmi Hjálmarsson og Sv. Sölvason. Eftir að umræðurnar höfðu staðið all-lengi var stungið upp á, stutt og samþykt, að slíta þeim.

Séra Björn B. Jónsson bar fram svo hljóðandi frumvarp til þingsyfirlýsingar:

„Vér, kirkjuþingsmenn, viljum innilega þakka forseta vorum, séra Níels Steingrími Þorlákssyni, fyrir ágæta stjórn hans á þinginu og meðferð hans á málefnum þingsins.

Vér þökkum söfnuðunum á þessum stöðvum fyrir bróðurlegar viðtökur og höfðinglegan viðurgjörning meðan vér höfum dvalið hér. Vér óskum söfnuðunum til lukku og blessunar með hinar nývígðu kirkjur, og biðjum guð að láta þær lengi standa, til blessunar fólki því, er á þessum stöðvum býr.

Vér endum þing þetta með því, að biðja til guðs fyrir hinum kæru bræðrum vorum, séra Jóni Bjarnasyni, forseta kirkjufélagsins, og séra Friðrik J. Bergmann, sem oss eru nú fjarlægir og vér svo mjög höfum saknað á þingi þessu. Vér biðjum guð að leiða þá heila á höfi aftur til vor, svo þeir geti haldið áfram hinu þýðingarmikla starfi sínu hér hjá oss.“

Þingið samþykti yfirlýsinguna í einu hljóði.

Gjörðabók þingsins var þá lesin og samþykt.

Sunginn var sálmurinn nr. 566. Séra Jónas A. Sigurðsson flutti bæn, og síðan sagði forseti þinginu slitið.

BJÖRN B. JÓNSSON, skrifari.



## Bandalagsþing,

haldið í kirkju Hallson-safnaðar í Norður-Dakota, mánudaginn 26. júní, 1899.

---

Fundur var settur kl. 2 e. h. af séra Jóni J. Clemens. Sunginn var sálmurinn nr. 17. Séra B. B. Jónsson, séra R. Marteinsson og séra J. A. Sigurðsson voru settir í kjörbréfanefnd, og samkvæmt skýrslu hennar, er var samþykt, áttu sæti á fundinum eftirfylgjandi fulltrúar:

Jón Sigfússon og Jakob J. Erlendsson, frá bandalagi Vídalíns-safnaðar; S. Th. Westdal, frá bandal. St. Páls-safn.; J. Hannesson og G. V. Leifur, frá bandal. Pembina-safn.; Miss G. Thomson, Miss S. Jónsdóttir og J. K. Johnson, frá bandal. Fyrsta lút. safn. í Winnipeg; Sigurgeir Björnsson, frá bandal. Þingvalla-safn.; séra J. J. Clemens frá bandal. Frelsis- og Fríkirkju-safn. Ennfremur áttu sæti á fundinum: séra N. Stgr. Þorláksson, séra J. A. Sigurðsson, séra R. Marteinsson, séra B. B. Jónsson, séra O. V. Gíslason og B. J. Brandsson (ex officio). Öðrum kirkjuþingsmönnum var veitt málfrelsi á þinginu.

Séra Jón J. Clemens var kosinn forseti fundarins, og S. Th. Westdal skrifari.

Þá var tekið til umræðu, hvort stofnað skyldi allsherjarbandalag það, sem gjört var ráð fyrir á fundinum í fyrra, og var fyrst lesin upp samþykt þessu viðvíkjandi frá þeim fundi.

Kirkjuþings-erindsrekinn einn frá Garðar-söfn. skýrði frá, að bandalag þess safnaðar hefði ekki sent neinn fulltrúa og gæti því ekki verið með í þessu allsherjar-bandalagi að svo stöddu, þó það yrði stofnað. En hann bar fundinum hlýja bróðurkveðju og einlæga heillaósk frá bandalagi sínu og sagðist vonast til, að síðar mundi það bandalag einnig verða með í félagsskapnum.

Fulltrúarnir frá öllum hinum bandalögum kirkjufélagsins lýstu yfir því, að sín félög hefðu samþykt grundvallarlög þau, er borin voru fram á fundinum í fyrra, og hefðu samþykt inngöngu í þetta allsherjar-bandalag, ef það yrði stofnað.

Jón Sigfússon stakk upp á, og séra J. J. Clemens studdi,

að allsherjar-bandalag þetta sé myndað. Eftir nokkrar umræður var það samþykkt.

Grundvallarlögin, sem áður höfðu verið samþykkt af bandalögunum, voru lesin upp og samþykkt í einu hljóði.

Þá fóru fram kosningar embættismanna, og voru þessir kjörnir: Forseti, séra Rúnólfur Marteinsson; varaforseti, séra Jón J. Clemens; skrifari, S. Th. Westdal; varaskrifari, Miss G. Thomson; féhirðir, J. K. Johnson; og vara-féhirðir, G. V. Leifur.

Að því búnu komu fram skýrslur frá hinum ýmsu bandalögum, skriflega frá bandalögum Fyrsta lút.- og Vídalíns-safn., og munnlega frá hinum; en fulltrúar frá öllum bandalögunum voru beðnir að leggja fram skýrslur sínar skriflega, til birtingingar ásamt fundargjörningnum í ,,Sam.". Þær hljóða svo:

### FRÁ BANDALAGI PEMBINA-SAFNAÐAR.

(Eftir J. Hannesson.)

Síðan síðasta ársskýrsla þessa bandalags var gefin, hefir félagi voru heldur farið fram og því aukist kraftar. Fundir eru haldnir reglulega einu sinni í mánuði, nema þrjá til fjóra mánuði á sumrin, sem ekki hefir orðið komið við að halda fundi, sökum þess að margt af félagsmönnum þarf að sækja vinnu sína burt úr bænum þann tíma. Sjö meðlimi hefir félagið mist á þessu ári, sem allir hafa flutt burtu héðan, nema einn; en svo hefir það aftur fengið níu nýja meðlimi, svo tala félagsmanna er nú 55, flest ungt fólk.

Fundir eru fremur vel sóttir, en illa gengur að fá fólk til að taka þátt í starfinu á fundum. Þó er það heldur að lagast, og sést þess ljós vottur að félagsskapurinn hefir þegar gjört talsvert gott,og sumir jafnvel fengið meiri áhuga fyrir málefni kristindómsins, því unga fólkið hefir, sérstaklega upp á síðkastið, tekið meiri þátt í og haft um hönd ýmislegt kristilegt og fagurt, sem það, án félagsskaparins, vafalaust mundi fara á mis við.

Á fundum bandalagsins, sem eru þrennskonar: trúmálafundir, mentamálafundir og starfs- og skemtifundir, hefir eftirfylgjandi verið haft um hönd : stutt æfiágrip ýmsra merkra manna, kristilegar dæmisögur, sögur, og einnig fluttir sálmar og kvæði, og er efni ætíð valið viðeigandi við þann og þann fund.

Rétt áður en fermt var hér síðastliðið vor, gaf félagið söfnuðinum altari í kirkjuna, sem kostaði nálega $145.00, og skuldar félagið nú um $30.00 af þeirri upphæð ; en það vonast eftir að geta borgað þá skuld næsta haust, jafnvel þótt flestir félagsmenn borguðu sín reglulegu árstillög fyrirfram, og þaraflleiðandi sé ekki peninga von frá þeirri tekjugrein í haust.

Þess er sérstaklega vert að geta, að félag þetta á líf sitt og framför

að þakka presti safnaðarins, séra J. A. Sigurðssyni, sem ekkert hefir látið ógjört til þess að félagskapur þessi gæti orðið hinum yngri að sem mestu og beztu gagni, og sjálfur hefir hann tekið þátt í „programm"-i á nálega öllum fundum félagsins. Nú fyrir skömmu gaf hann félaginu $10.00 í altarinu, sem hann útvegaði fyrir það. Meðlimir bandalagsins sýndu það líka á síðasta fundi, hve vænt þeim þætti um starf hans, með því að gjöra hann að heiðursfélaga bandalagsins, og er hann sá fyrsti og eini heiðursmeðlimur, sem félagið á.

---

## FRÁ BANDALAGI FYRSTA LÚT. SAFN. Í WINNIPEG.

(Eftir Miss G. Thomson.)

Skýrsla sú, sem lögð var fram á síðasta kirkjuþingi yfir ástand bandalags Winnipeg-safnaðar, var ekki glæsileg. Í henni var sýnt fram á það, að framfarirnar andlegu hefðu verið litlar og vonir þeirra manna, sem mestan áhuga hafa fyrir vexti þess og viðgangi, að miklu leyti brugðist. Skýrsla þessi getur því miður ekki heldur orðið jafn glæsileg og æskilegt væri. Bandalagið á ennþá langt í land til þess að ná því stigi, er oss finst það ætti að geta náð og æskilegt væri. Engu að síður getum vér með mikilli ánægju skýrt frá því, að á síðast liðnu ári hefir það tekið all-miklum framförum. Fundirnir hafa verið talsvert fjölsóttari. Unga fólkið hefir tekið langtum meiri þátt í starfinu heldur en nokkru sinni áður, einkum stúlkurnar. Efni fundanna hefir verið fjölbreyttara og haft meira andlegt innihald heldur en áður. Unga fólkinu yfir höfuð þykir vænna um félagsskapinn og fundina heldur en áður. —Alt þetta ber þess ljósan vott, að bandalaginu þokar eigi svo lítið áfram í rétta átt.

Sérstök áhersla hefir verið á það lögð, að láta alt fara fram á íslenzku á fundunum. Unglingunum, sem mestan þátt hafa tekið í starfinu, hefir þannig gefist kostur á, að taka framförum í móðurmálinu. Ýmsir skemtandi og uppbyggilegir kaflar, eftir beztu höfunda, hafa verið útlagðir úr ensku og lesnir. Kaflar úr æfisögum merkra manna sögunnar—sérstaklega hinnar helgu sögu—hafa verið sagðir. Kvæði eftir merkustu íslenzku skáldin hafa verið lærð og höfð yfir utanbókar—einkum biblíuljóð séra Valdimars Briem. Á starfsmála- og skemtifundum hefir all-oft verið talað um merkustu nútíðarviðburði heimsins, unga fólkinu til fróðleiks.

Vér álítum að bandalagið hafi grætt á aðal-fundinum, sem haldinn var á kirkjuþinginu í fyrra, og vér trúum því, að framfarirnar á árinu séu að einhverju leyti þeim fundi að þakka. Auðvitað eru þær aðallega ávöxturinn af umhyggju og starfi þeirra séra Jóns Bjarnasonar og frú Láru konu hans, sem öllum öðrum fremur verðskulda elsku og þakklæti unga fólksins.

Á árinu hafa innritast í bandalagið 31, en úr því gengið og verið strykaðir út af meðlimaskránni 15; meðlimatalan er því nú 179.

Bandalagið á nú einungis $9.00 í sjóði, og um $40.00 útistandandi; en það hefir á árinu gefið söfnuði sínum $90.00, fátækum $10.00, Hornstrendingum á Íslandi, til bænahússbyggingar, $10.00, til kristniboðs út

á meðal heiðingja $10.00, alls $120.00, og auk þess hefir það nú tekið að sér að leggja $20.00 í missíónarsjóð kirkjufélagsins fyrir næstu áramót.

Blessun drottins hefir verið yfir starfi bandalagsins á árinu, og með hans hjálp vonum vér, að næsta ársskýrsla sýni ennþá meiri framfarir, bæði andlegar og líkamlegar.

---

## FRÁ BANDALAGI VÍDALÍNS-SAFNAÐAR.

(Eftir J. J. Erlendsson.

| | |
|---|---|
| Meðlimafjöldi við ársbyrjun (20. júní 1898) | 73 |
| Gengnir í félagið á árinu | 6 |
| Fluttir burt á árinu | 19 |
| Í félaginu 20. júní 1899 | 60 |

| | |
|---|---|
| Inngangseyrir og tillög félagsmanna | $28 55 |
| Safnað í frjálsum samskotum | 9 00 |
| Tekjur alls | $37 55 |
| Borgað fyrir altari í kirkjuna (skuld frá 1898) | 36 65 |
| Í sjóði 20. júní 1899 | $0 90 |

—Auk þess á félagið útistandandi hjá meðlimum sínum $24 55.

---

## FRÁ BANDALAGI FRELSIS- OG FRÍKIRKJU-SAFNAÐA.

(Eftir Miss G. S. Pétursson, skrifara bandalagsins.)

Í bandalagi þessu, sem nú er rúmlega ársgamalt, eru nær 40 meðl.

Félagið heldur fundi tvisvar í mánuði, til skiftis trúmála- og mentamálafundi; en skemtifundir eru aðeins hafðir eftir sérstöku ákvæði. Á árinu hafa verið haldnir þrír skemtifundir, og hafa tveir þeirra verið opinberar samkomur, sem öllum var boðið að sækja ókeypis.

Það hefir verið gjört að reglu í bandalaginu, að velja sérstakt umræðu efni fyrir hvern trúmála- og mentamálafund. Meðal annars valdi bandalagið það að verkefni síðastliðið ár, að vekja eftirtekt unglinganna á íslenzkum bókmentum, og í þeim tilgangi hafa verið fluttar ræður og ritgjörðir um ljóðmæli nokkurra hinna helztu íslenzku ljóðskálda.

Reynt hefir verið, að fá sem flesta af félagsmönnum til að taka þátt í fundarstörfum, t. d. þá er rætt hefir verið um eitthvert skáld, hefir einn sagt æfisögu-ágrip þess, annar talað um ljóðmæli skáldsins, og síðan hafa nokkur af helztu kvæðum sama skálds verið flutt af ýmsum. Hafa fundarmenn oft leyst verk sitt mjög vel af hendi.

Umræðuefni fyrir mentamálafundi hafa verið sem fylgir : ljóðmæli Jónasar Hallgrímssonar, Bjarna Thorarinsens og Hallgríms Péturssonar. Ennfremur hefir verið sagt frá lífsstarfi W. E. Gladstones og Benjamíns Franklíns. Á trúmálafundum hafa umræðuefni verið : ljóðmæli séra Valdemars Briem og séra Matth. Jochumsonar, kristni lögtekin á Íslandi og siðbót Lúters. Á einum trúmálafundi veittist bandalaginu sú ánægja að hlýða á fyrirlestur, sem Páll M. Clemens flutti um áhrif þau er Íslendingar gætu haft á þjóðlíf þessa lands.

Nokkur fundaföll urðu um kaldasta tímann í vetur; ennfremur var

ákveðið, að halda ekki fundi um uppskerutímann á síðastliðnu hausti. Yfir höfuð hafa fundir ekki verið eins fjölsóttir eins og æskilegt hefði verið. Þó hafa ýmsir komið á fundi stöðugt og sýnt áhuga fyrir félagsmálum.

---

## FRÁ BANDALAGI ST. PÁLS-SAFNAÐAR Í MINNEOTA.

(Eftir S. TH. WESTDAL.)

Bandalag St. Páls-safnaðar hefir haldið 36 fundi á síðastliðnu ári, til skiftis trúmála- og mentamálafundi. Meðlimatala fyrir ári síðan 50, skrifast inn í félagið á árinu 14, gengið úr fél. 5, meðlimir nú 59. Meðaltal á fundum 25. Fundir hafa ekki verið eins vel sóttir eins og æskilegt hefði verið, en þeir, sem hafa fært sér þá í nyt, hafa haft mikið gott af þeim, og hefir framför hjá mörgum þeirra verið auðsjáanleg.

Bandalagið hefir ekki gjört meira í peningalegu tilliti en að borga kostnað við fundahöld, en vonandi er, að áður en langt líður geti það verið söfnuðinum að ýmsu leyti til styrks peningalega.

Sú reynsla, sem vér þegar höfum,sýnir, að það er mjög áríðandi fyrir söfnuðinn að slíkur félagsskapur haldist uppi, og ættu allir að starfa að því af fremsta megni.

---

## FRÁ BANDALAGI ÞINGVALLA-SAFNAÐAR.

(Eftir SIGURGEIR BJÖRNSSON).

Meðlimatala bandalagsins er nú 28. Hefir meðlimum fækkað talsvert á síðastliðnu ári. Fundir hafa verið fremur strjálir, og yfir höfuð virðist áhugi manna fyrir félagsskapnum vera heldur að dofna.

Fundir eru samt oft mjög uppbyggilegir,og inna margir þeir, er taka þátt í fundunum, skyldur sínar vel af hendi. Eru þar rædd, meðal annars, ýms kristileg málefni, sagðar æfisögur merkra manna í biblíunni, m. fl. Á trúmálafundum fer fram sálmasöngur, biblíulestur og bæn á undan aðal dagskrá fundarins.

Aðal gallar félagsskaparins eru nú: skeytingarleysið með að sækja fundi, og í öðru lagi það, hvað lítil áherzla er lögð á að byrja fundina í tíma, hafa ákveðnar fundarreglur og fleira, sem vér hirðum ekki um að nefna. Samt sem áður viljum vér halda áfram, og efumst ekki um, að ef hægt væri að glæða áhugann fyrir félagsskapnum dálítið meir, einkum hjá yngri kynslóðinni, mundi gata félagsins verða greið og það geta starfað meira en nú fyrir gagn unga fólksins yfirleitt í söfnuði vorum.

Efnalega stendur félagið vel: á sitt eigið fundarhús, nú skuldlaust.

Vér biðjum að endingu drottin að blessa félag vort og veita því náð til að vinna að kirkju- og kristindómsmálum, unga fólkinu í söfnuði vorum til blessunar.

Þegar skýrslurnar höfðu verið lagðar fram, fóru fram umræður um ýms atriði í þeim og enn fremur um ýmsa örðugleika, sem menn hefðu við að stríða í félagsskapnum.

Út af fyrirspurn um tekjur félagsins skýrði séra Jón J. Clemens frá því, að vanalegt væri, á samskonar þingum og

þessu, að taka samskot til að borga þann kosnað, sem þingin hefðu í för með sér, en engin föst gjöld höfð. Samskot voru þá tekin, er námu $3.93.

Að starfsmálum fundarins loknum söng séra Jón Clemens ,,solo" og séra R. Marteinsson flutti ræðu um ,,starfsþrá unga fólksins".

Að endingu var sunginn sálmurinn nr. 420 og ,,Faðir vor" lesið af öllum í sameiningu. Svo var þingi slitið.

S. TH. WESTDAL, skrifari.

---

KIRKJUVÍGSLUR tvær fóru fram meðan kirkjuþing þetta hið síðasta stóð yfir. Sunnudagurinn (25. júní 1899) reis upp úr ,,myrkranna geigvænum geim" hátíðlegur og dýrðlegur, og hélt hann fegurð sinni til enda. Um kl. 11 f. h. hófst vígsla kirkju Hallson-safnaðar, samkvæmt hinu venjulega formi við slíkar athafnir í kirkjufélagi voru. Mikill fjöldi fólks hafði safnast saman, og gátu sumir ekki inn komist. Allir prestar kirkjufélagsins, sem nærverandi voru, tóku þátt í vígslunni. Séra Björn B. Jónsson flutti vígsluræðuna. Séra N. Steingrímur Þorláksson, vara-forseti kirkjufélagsins, framkvæmdi aðal vígsluathöfnina. Altarisganga fór fram fyrir kirkjuþingsmenn og fólk þar í söfnuðinum, og útdeildi séra Jónas A. Sigurðsson sakramentinu.

Kl. 4 e. h. sama dag vígði séra N. Steingrímur Þorláksson, með aðstoð hinna sömu presta, kirkju Péturs-safnaðar, sem er 3 mílur fyrir norðan Hallson. Séra Rúnólfur Marteinsson prédikaði við það tækifæri. Altarisganga fór þar einnig fram. Fjöldi fólks var saman kominn hér, eins og á Hallson.

Kirkjur þessar báðar eru myndarlegar og söfnuðum sínum til sóma, og var þessi sunnudagur mikill og dýrðlegur hátíðisdagur fyrir þá. Vonandi er, að söfnuðirnir verði ætíð eins sannarlega helgaðir guði eins og guðsþjónustuhúsin þeirra voru vígð þennan dag. Í næsta blaði flytur ,,Sam." yfirgripsmeiri ritgjörð um kirkjur þessar og söfnuði.

Útför Jóhanns Hallssonar fór fram, á meðan á þessu kirkjuþingi stóð, frá kirkju Hallson-safnaðar laugardaginn 24. júní 1899. Hinn aldurhnigni öldungur var fyrsti landnemi á þessum stað, og heitir þorpið og söfnuðurinn eftir honum. Hann var einhver ötulasti og dyggasti merkisberi safnaðarins, sem hann unni heitt, og þráði hann af hjarta að meðtaka líkama og blóð vors blessaða frelsara þegar kirkjan væri opinberlega vígð drottins þjónustu. Það auðnaðist honum ekki, því hann dó rétt fyrir kirkjuþing. Í stað þess var lík hans í kistunni borið inn í kirkjuna kl. 2 e. h. laugardaginn næsta á undan vígslunni. Í kirkjunni fluttu ræður séra Björn B. Jónsson og sóknarpresturinn, séra Jónas A. Sigurðsson, er flutti aðal útfarar-ræðuna. Við gröfina talaði séra N. Steingrímur Þorláksson, og var líkið ausið mold af séra Jónasi. Mikill fjöldi fólks var viðstaddur athöfnina í kirkjunni og fylgdi öldungnum til grafar.



Í skýrslu skólanefndarinnar, í fyrri hluta þessa blaðs, stendur, að skólasjóðurinn nú nemi $5,737.68. Þetta er skakt; á að vera $5,749.67, eins og stendur í *skýrslu* yfirskoðunarmannanna í sama blaði.



Þriðjudaginn, 11. júlí síðastl. hélt skólanefnd kirkjufélagsins fund hér í Winnipeg. Á þeim fundi afréð hún meðal annars að senda mann út til að safna fé til styrks skólanum meðal Canadamanna. Séra Jónas A. Sigurðsson var kosinn til þess starfa.



Frézt hefir það af séra Jóni Bjarnasyni og ferðafólkinu, sem ásamt honum lagði af stað til Íslands í maí síðastl. að þau komu til Reykjavíkur 28. júní, og leið öllu ferðafólkinu vel.



Hin vanalega prestastefna (sýnódus) íslenzku kirkjunnar var haldin í Reykjavík 28. og 29. júní.

Auk hinna vanalegu starfsmála prestastefnunnar voru þrír fyrirlestrar fluttir þar. Forstöðumaður prestaskólans,

séra Þórhallur Bjarnason, flutti fyrirlestur um fríkirkjumálið, séra Jón Helgason um kenningafrelsi presta og séra Ólafur Ólafsson í Arnarbæli um afstöðu prestanna gagnvart bindindismálinu. Talsverðar umræður hófust út af tveimur hinum fyrst nefndu fyrirlestrum. Hið fyrst nefnda spursmál hefir nú verið uppi í íslenzku kirkjunni ekki svo fá ár, og hefir séra Þórhallur einna helst tekið það mál undir sinn verndarvæng af þeim prestum, sem eru í þjónustu þjóðkirkjunnar.

---

Júnímánuður má með sanni kallast kirkjuþinga-mánuður, að minsta kosti hvað snertir lútersku kirkjuna hér í Ameríku. Mjög mörg af hinum stærri og minni kirkjufélögum Ágsborgarjátningarinnar héldu ársþing, eftir venju, í síðastl. júnímánuði. Hið stærsta lúterska kirkjufélag meðal Norðmanna er hin svonefnda „Sameinaða kirkja". Henni tilheyra nú 365 prestar, 1,083 söfnuðir, með 126,872 fermdum meðlimum. Hún hélt þing sitt i Minneapolis 21.—29. júní. Hið þýðingarmesta spursmál, sem þing þetta hafði til meðferðar, var skólamál kirkjunnar. Um það var rætt í fjóra daga, mest um það, hvar aðal lærði skóli kirkjufélagsins skyldi settur. Að lokum var samþykt, að St. Olaf College í Northfield, Minn., skyldi verða lærði skóli kirkjufélagsins, en prestaskólinn skyldi vera, eins og að undanförnu, í Minneapolis, Minn.

---

„EIMREIÐIN", eitt fjölbreyttasta og skemtilegasta tímaritið á íslenzku. Ritgjörðir, myndir, sögur, kvæði. Verð 40 cts. hvert hefti Fæst hjá H. S. Bardal, S. Bergmann o. fl.

---

„KENNARINN", mánaðarrit til notkunar við kristindómsfræðslu barna í sunnudagsskólum og heimahúsum; kemur út í Minneota, Minn. Árgangurinn, 12 nr., kostar að eins 50 cts. Ritstjóri séra Björn B. Jónsson. Útg. S. Th. Westdal.

---

„ÍSAFOLD", lang-mesta blaðið á Íslandi, kemur út tvisvar í viku alt árið; kostar í Ameríku $1.50. Halldór S. Bardal, 181 King St., Winnipeg, er útsölumaðr.

---

„VERÐI LJÓS!"— hið kirkjulega mánaðarrit þeirra séra Jóns Helgasonar, séra Sigurðar P. Sívertsens og Haralds Níelssonar í Reykjavík — til sölu í bókaverzlan Halldórs S. Bardals í Winnipeg og kostar 60 cts.

---

„SAMEININGIN" kemur út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vesturheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfur Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.